[Þess íslendska evangeliska smábóka félags rit Nr. 30.]

# Christindómurinn.

Utlagt af útgéf.

Einginn hlutur ætti oss audveldari ad falla enn Kristindómurinn, og þó veitir eckert forsóktara. Eckert audveldara, seigi eg, nær hugleidast þær mørgu upphvatníngar og knýandi orsakir, sem vér til hans høfum, og þar ad auki sætleiki sá og ávinníngur, sem hønum í sjálfum sér fylgir; en eckert forsóktara, nær íhugast, hve ofurfáir þeir eigi ad sídur eru, sem hegda sér svoleidis, ad þeir med sóma bera kunni þad edalliga nafn, Christnir ad heita.

Til ad leida þad fyrra fyrir sjónir, hlýt eg ad skíra frá hvad Christindómurinn sé, og sídan afmála þann sannchristna. Christinndómurinn kappkostar, þad ytrasta møguligt er, ad leida skynsemina til þess ljóss, og viljann til þess hreinleika, sem þau í Paradís høfdu, þá manneskjan var enn í sakleysisins standi. Þessvegna skipar hann eckert þad, sem móti strídir skynseminni, eckert sem ei bygd sé á manneskjunnar náttúru, og því sem henni í raun og veru gagnligast er; já, alls eckert, sem strídir í

gégn þeim óraskanliga grúndvelli: enum náttúr-ligu trúarbrøgdum. Hann leitast vid ad leida manneskjuna aptur til síns tapada verdugleika. Hann sýnir ad manneskjan ecki sær nád hønnum, í sínu nálæga lífs ástandi, med því skynsemin er formyrkvud, viljinn saurugur, nema hún ødlist styrk til þess hér ad ofan, frá andanna Fødur. Hann sannfærir mann um, ad skynsemin og viljinn séu svo spillt, ad manneskjan, jafnvel þó hún þennan styrk ødlist, géti þó ecki, á þessum heimi, nád hinu tapada hnossi, heldur hrasar hún optsinnis, gjørir þad litla gott, hún adheffst, med miklum vanmætti, og finnur sjálfdt stríd hjá sjálfri sér, svo ad hún ymist lockast af dygdinni á adra sídu, ymist verdur dreigin af ódygdinni á hina. Hann kénnir, ad sjálfur Gud steig þess-vegna af himni nidur, og tók á sig manndómliga náttúru, og sætti heiminn vid sjálfan sig, med því móti, ad hann varpadi sér undir allan mann-anna breiskleika, ad syndinni undantekinni, já med því ad pínast og med því ad deya í þeirra stad; svo ad þær dygdir, sem hann ædi, bæta brest þann, sem finst í vorum dygdum, og þad straff, sem hann leid, uppfyllti þad straff, sem yfir oss skyldi annars dynja, þó med þeim skil-mála, ad vor dygdaskortur ei komi af illvilja einum edur þverúd; því ella hljótum vér sjálfir straffid ad bera, og fridþægíng Christs notar oss alls ecki, heldur einsköstar af vanmætti og breisk-

leika, því þá vill Gud breyta vid oss eptir nád, en ei eptir straungum rétti.

Í frá þeim tíma Christur umgéckst hér medal vor mannanna, er oss aptur opnadur vegur frá jordu til himins; allt frá þeim tíma meiga vesælar mannsképnur vogast ad frambera bænir sínar fyrir Gudi allra Guda; í frá þeim tíma hafa andvorp syndugra jardarmadka þreyngt sér gégnum skýin fram fyrir nádarstólinn, frá þeim tíma dyrfast þessir ormar ad kalla Gud sinn bródur, frá þeim tíma er ódaudligleikinn ordinn fagnadar efni; ódaudligleikinn, seigi eg, hvar ádur var sem byrdi, já sem straff; þúsundir alda, já, ótöluliga margar þúsundir þúsunda, hvad er þetta ad reikna hjá eilífdinni? Ad þeim lidnum, má hún vart teljast byrjud, og jafnlángvarandi skyldu þó syndanna plágur verda. O þá mundi manneskjan í sínu örvæntíngarfulla ástandi hafa orsök þannveg ad bidja: o þú hátursverdi ódaudligleiki, o ad þú sjálfur dáid gjætir! O þú skelfiligi Gud! ljósta mig til dauds med þínum eldínga reidarslögum! Gjör ódaudligleikann ad eingu! Lát þann tíma apturkoma þá eg ekkert var; edur ad minsta kosti, gjör þúsundir alda ad árum, ad dögum, ad augnablikum. En nú sídan Christur kom, má þetta örvíglunar vein umbreytast í þesskonar gledi hróp: o þú eylífa nád! o þú sælunnar eylífi brunnur! Lát þúsundir ára framkoma, ótöluligar þúsundsinnum þúsund

aldir! já, lát augnablik verda ad þúsund öldum! En slíkt er forgéfins bæn! Gledin styttir tídina, eigi nockur tíd annars heima í eylífdinni. Því-lík gétur þó verid ósk og bæn þess ódaudliga, sem hólpinn ordinn er, þeirrar skínandi moldar, þess dýrdliga gjörda dupts. O þú óskiljanligi Gud! Duptid situr nálægt þínum hástól; duptid er sameinad, já, gégnum þrengt af sjálfum gud-dóminum!

En hvör er nú hetja, sú, er leslina, er daudan og straffid hefir á flótta rekid; hvör hefir sigrad mannkynsins fianda, þann gamla mordíngja, þann sterka Leviathan; hvör myrkrid burturekid, en ljósid framleidt? Þad hefir Christur, sá Gud og madur gjördt. Hann sem er sá hærsti og lægsti, sá ódaudligi og daudligi, herra og þræll, alltsaman undireins! O þann stóra leyndardóm, sem stígur yfir skynsemina, en stríder þó ecki móti henni! Þau opinberudu trúarbrögd hljóta ad hafa leyndardóma; þeir eru vissuliga kénniteikn þess, ad þaug sönn eru. Sú veikasta skynsemi, nær hennar neytt er, gétur skilid ad Gud er til; en Einglanna skynsemi skilur ecki Guds náttúru, veru og eiginligleika. O þú hégómliga skynsemi, þú sem leida vilt rök ad leyndardómum og gjöra þá skiljanliga, til dæmis: Leyndardóm þríeiníng-arinnar, manndómsteckníngarinnar og s. fr. hvílík dármenska er. slíkt. Sá endanligi vill mæla þann óendanliga, sá takmakadi þann takmarkslausa!

Einginn fær Guð skilið nema Guð sjálfur! Einglar, já Höfuðeinglar titra! nær þeir þeiri um hans veru; þeir tilbiðja hann í þögn og kyrrðum fullir heilagrar blygðunar!

O þú skynsemi! leið þú rök að Biblíunnar sannleika og guðdómligleika; það getur þú; til þess hefir þú frelsi; og trúðu síðan, nær Guð talað hefir! Dárdjörf ert þú, ef þú trúir minnu, enn Guð býður; en hjátrúarfull, ef þú meiru trúir. Lát Guðsorð vera þína reglu og málisnúru, eptir hvörri þú lagar þína þánka, og lát þessa þánka sýna sig í þínum útvortis lifnaði. O hvílík huggun má þér vera það, að sá þú tilbiður, er manneskja sem þú; að þin bróðir frammber þínar bænir fyrir Guð! Nú getur þú verið fullur af trúnaðartrausti; nú er skýlan burtutekin, sem áður hjeck á milli himins og jarðar; nu drýgir þinn ímindunarkraptur ecki synd, þó þú ímindir þér Guð undir mannligri mind. Nú getum vér fest augu vor á einum vissum púnkti; áður var eintómt myrkur fyrir augum vorum. O þú manneskja, vertú þessvegna áköf og óþreytanlig í bæninni; allt hvað þú sjer, finnur til og nýtur, minnir þig á að frambera Guði þakkláti; allt það sem í kríngum þig er, getur ollað þér tjóns, og minnir þig, með því móti, á að hrópa til Guðs um hjálp; allt hvad í heiminum er, það smáa sem það stóra, sýnir þér hvad Guði er stór og voldugur, og minnir þig svoleiðis á að

inna Gudi-lofgjörd. Einginn elskar annan, nema hann finni hjá sér laungun til að njóta hans umgeingni; og nema hann hafi ángur af, að sviptast hans návist til lángframa. Finnur þú til þess sama í tilliti Guds? Bænin er þá sú einasta aðferð, með hvörri þú hast gétur umgeingni með Gudi? O hvörsu margt er það sem uppvekur þig til að vegsama Gud! Jardarinnar fegurð í gróendum, jurtanna ilmur, stjarnanna fjöldi, sólarinnar ljós, fuglanna kvak, má ei allt þetta hvetja þig til að lofa Skaparann? Þackar þú honum fyrir þínar tilfinníngar, þína þánka, þína heilsu og þinn styrkleika? Falli sjúkdómur á þig, svo þínum líkama er búið við eydileggíngu, edur hrekist þú á hafsins brúsandi bylgjum, edur standi hús nágranna þíns í björtu báli, edur fólki ótryggur vinur þig, edur sértu ásóktur af leyniligum flandmanni, mæti þér eitthvað af þessu, en þú frelsast úr háskanum, hvörjum þackar þú þá frelsi þitt? Máské þú þackir það læknirnum, læknisdóminum, náttúrunni (nafni, sem ekkert þýdir), ellegar þinni eigin skynsemi og vitsku, edur og luckunni (einum hlut, sem ecki er til). O þú dári! hvör hefir tilbúid allt þetta, hvör hefir þessi hjálparmeðöl tilsett? Hvör? nema sá, hvörs hönd skapar alla hluti og stjórnar þeim. Þacka þú honum, vegsama þú hann, heidra þú hann, og brúkaðu með skynsemi meðöl þau, sem hann þér géfið hefir! Þú seigist elska Gud; en

villt þó vera lángt frá honum, þú villt ecki tala vid hann, þú skélfist mäske þegar hans nafn er nefnt, þú hugsar alls eckert til hans. Mundi ecki unnusta eins, álíta slíka elsku fyrir hatur; og ad minsta kosti áttú þó ad elska Gud eins inniliga, sem einn elskar unnustu sína, ja þú ert skyldugur ad stunda þar eptir. Ad vísu er þad satt, ad náttúrufar manna er ómisligt. Einn kann ad elska unnustu sína, med eins stórri hreinskilni sem annar, en þó ei med jöfnum ákafa, eldi, anda edur blossa; en án alls blossa er þó aldrei nockur elska til. Náttúrufarid kann ad sönnu olla því, ad hann nockud dapur sé, ad hann standum rétt sem blaktir og er búid vid ad útslokna; en svo leingi elska til er í hjartanu, deyr hann þó aldrei út ad öllu. Sé þessvegna öll þreyíng, öll laungun til Guds, allt traust á Gudi útdaud hjá þér, svo vit fyrir víst, ad annadhvort hefir þú aldrei elskad hann, ellegar ert hættur ad gjöra þad. En þad er þó þín skylda ad elska hann. Elskan til Guds er undirstadan til alls gódds; hún gjörir oss sanndristna hér í heimi, en sáluhólpna í eylífdinni. Þessvegna er líka svo þitt eigid gagn undir því komid, ad elska Gud. Akalla hann þarfyrir af alvöru um kraft til þess, og vertú víss um, ad Guds andi mun upptendra andagtarinnar eld í sálu þinni. Aldrei hefir enn nú nockur forgéfins hrópad til Guds um hjálp í þeim efnum, nær hann ad eins af alvöru bedid hefir.

Sé ná náttúrufar þitt ákaft og brennandi, sadmir þú þinn jardneſka vin med hita og ſægnudi, en þvert á móti, annadhvört aldeilis ecki tilbidur Gud, og þig lika ſem ſtuggar vid hönum, ellegar og tilbidur hann med réttri hálfvelgju, vit þá med viſſu, ad þú alls ecki elſkar Gud. En elſkir þú Gud af alúd, þá flýtur allt annad gott — já allar dygdir — þaraf ſiálfkrafa; þú ert þá medaumkunarfullur, gódgjördaſamur, hógvær, vingjarnligur, ſáttfús, audmjúkur, trú'aſtur, ſkírlífur, ſidſamur; í ſám ordum, þú æfir þá allar dygdir og þad ſannarligar dygdir. Nú þó madur áſtundum bidji Gud, og finni þar af hjá ſér nockurskonar andakt, hita og upplýſtíngu í ſálu ſinni, þó hann jafnvel haldi öll trúarbragdanna atridi fyrir ſönn, þó hann enda opinliga gángi í kyrkju, en er þarfyrir utan annadhvört óſkírlífur, rángsleitinn, ágjarn, óhófſamur, reidigjarn, þá má hann fyrir ſatt halda, ad öll þeſsi andagt kémur af hans náttúrufari einskoſtar, en alls ecki af ſannri elſku til Guds. Þeſsvegna ber manneſkjunni á hvörju kvöldi nákvæmliga ad próſa ſiálfa ſig og ſinn lifnad, og ſpyrja ſig eins og heidíngi einn gjördi: "hvad hefir þú í dag adhafſt þad, ſem þú áttir þó ecki ad gjöra; hvörju heſir þú í dag gleymt ad gjöra, af því ſem þér heſdi þó borid?" Finni hann ſig nú framid hafa nockra áſetníngsſynd, þá vitnar ſamviſka hans gégn hönum, ad hann ſé eingin ſannchriſtinn, og ad

hann annadhvørt hafi aldrei í Guðs náð stadid, ellegar hann sé úr henni fallinn, og þá byrjar hønum strax ad bidja Gud um fyrirgéfníngu, ásetja sér ad betra lifnad sinn, og betra hann sídan í sannleika á eptir. Nú þó hann, vid rannsókn þessa, finni sig æst hafa nockrar dygdir ad álitum, og þessvegna gjøri sér í lund, ad hann sannchristinn sé, þá ber hønum ad ransæka sig siálfan, hvørt hann og svo ydugliga þar hjá tilbidur Gud; hvørt hann hugsar ort til hans; hvørt hann þackar hønum, lofar hann og ákallar? Ef hann veit sig gjørdt ha'a náúnga sín um gott, þá prófi hann sig siálfan, hvørt þad skéd hefir af elsku til náúngans, edur alleina af géds vidkvæmni, af því hann ei fær þolad ad heyra annara kvein og kløgun, edur og af girnd eptir mannalof og æru; risi nú góðgjørdasemi hans og medaumkan af þeim sídari orsøkum, þá kvedur eckert ad henni, hún er þá ei christilig; og þá mun hann líka þess var verda, ef hann dyggiliga ransakar hjarta sitt, 'ad hann hneigdur er til annara lasta, optast nær til bilífis og lauslætis; í hvøjum ef hann liggur, þá er christindómur hans einganveiginn sannarligur. Hans dygdir spretta þá einúngis af hans náttúrufari, svovel sem hans lestir. Nú þó hann sé skírlífur og hofsamur, þá samt, ef ástædur þeis ei réttar eru, mun hann þess var verda, ad hann er strángur, þrætugjarn, ágjarn, reidinn; því gjørvallur christ-

indómurinn er fólginn í æfíngu; sálin, sem er gdjúsöm og upptendrud af kjærleikans loga, já líkasem gegnumþrengd og uppfyllt af guddóminum, hún lætur sitt sinnislag í liósi, jafnt í öllum sínum athöfnum, og meddþtir ödrum af sama blossa, sem hún brennur af. Christindómurinn er ecki málædi eitt, né heilagrilla, heldur einskjær sannleiki og kraptur.

---

Þannveg, sem sagt er, er nú Christindóminum háttad, en hvílíkur er þá hinn sannchristni? Pad spursmál er og mikilvægt! O þú voldugi Guds andi, þú sem sveimar yfir Cherubím! O þú ljós, sem einginn fær tilkomist; þú hvørn allstadar er ad finna! Styrk mína málhöllu túngu, lífga minn vanmáttka anda, og géf mínu manneskjuliga ordfæri allan þann krapt, sem þad megnar móti ad taka, til þess ad eg nockurnveiginn afmálad fái þau kénnimerki, sem audkénna Guds og manns-vininn, hann sem þína mind á sér ber; hvørs helgada sál býr í dandligu dupti, og fyrir hvørs sakir sjálfur Gud — sú önnur persóna guddómsins — nidursteig úr dýrd sinni í djúpustu audvirdu; í einu ordi: þann sem í raun og sannleika christinn er. Eg byrjg þá á upphafinu. Sá almáttugi Gud tók duptid — mold jardar, eptirsem ritníngin til orda tekur — og hann gaf þessu dupti hræríngu og smindunarkrapt. Af hvílíku efni skóp hann manneskjunna, gjæddi hana med

skynsemi, til ad greina gott frá vondu, og med frívilja, til ad útvelja edur hafna, eptir eiginn þókta; samt med tilfinníngar edli, til ad géta elskad — já heitt elskad — þad góda, en amast med því vonda. En — hvad skédi? Einn vondur en mektugur andi, einn slóttugur, taslafullur og ofundsjúkur andi formyrkvadi mannsins skynsemi, forspillti hans vilja og misbrúkadi hans tilhneigíngar; þar á eptir gat mannesjan fyrst af sér verur, líkar henni ad allri vansemd; en hefdi hún gétid þær nockrum augnablikum ádur, hefda þær þvert á móti ad ellu verid Gudi líkar. Í frá þeirri stundu meiga allir menn hjá sér innvortis finna nockurskonar stríd; hvíst vil sálin líka sem hefja sig til himins upp, en troda hid jardneska fótum, hvíst blindast skynsemin aptur af heimsins skíngódu hlutum, svo hennar augu megna ecki ad sjá fegurd hins himneska; hvíst afvegaleidist hennar vilji af glansandi hégóma, og stundum dragast hennar tilhneigíngar af hans tælandi lystisemdum. O þann farsæla sannchristna! Hann sem í rauninni þeckir stríd þetta, hann sem sækist eptir þeirri tøpudu vegsemd, en sem þó vid allt þetta audmýkist og varpar sér í Jesú fadm; þar finnur hann hvíld og endurnæríngu. En ad hann er alltíd róligur, ánægdur, og hjarta hans rétt sem sveimar í gledinnar hafi; hvad veldur því? af því hann ber himnaríki þarinni. Líkami hans er ad sønnu hér á jørdu, en sála hans er

á himnum. Midt í allri sorg, í ástvina missir, í audlegdar tjóni, vid dauda sinna foreldra, sinnar egtakvinnu og barna, midt í því hann siálfur víniſt, edur er staddur í daudans adsvrum, er hann hughraustur, því hann hefir lært ad setja þad sanna verd á alla hluti. Hann veit ad sorgin lídur skjótt hjá, en fögnudurinn varir eilífliga. Hann er viss um ad finna sína vini, sína foreldra, sín börn, sitt egtahjarta — þennan sinn dýrmætasta eigindóm — aptur, og fadma þau á himnum. Þeir eru ecki í rauninni daudir, hann hefir ecki mist þá, heldur eru þeir farnir á undan honum, til eins annars lands, hvort hvorinn mun innanskams sleita fara hans til óskabafnar. Audlegd þéssa heims álítur hann hverfula, hennar náttúra er hverfulleikinn; einúngis á himnum finst sú stadfasta audlegd. En hvad líkamans þjáníngu snertir, þá kénnir hann hennar ad vísu, sem adrir; en hann álítur hana sem vönd Guds typtunar vegna mannanna synda yfir höfud, og sinna sérílagi; hann metur hana sem medal eitt í Guds hendi, til ad sannfæra sig um heimsins sánbta eptirlæti og eylífdarinnar nálægd; hann álítur hana, sem bumsshanliga sameinada sinni náttúru, og sem veg þann edur hlid, í gégnum hvört hann inngánga skal til dýrdarinnar. Loksins hvad daudann áhrærir, þá er hann ecki annad í hans augum, enn sem tímaskipti náttúrsfonar. Eins og hann á hvörju kvöldi færist af klædum

sínum, svo skal hann lokfins afklædast holdinu, og leggja sig til lángvarandi hvíldar; holdid á ad sofa, en sálin vaka og glediast; holdid skal á sídan upprísa, sameinast sálunni, og svo bædi saman njóta eylífrar sælu. Eptirfylgjari Jesú skélfist því ei fyrir daudanum, þvert á móti yfirvinnur hann ógn þá, sem náttúrunni stendur af koma hans, med stadfastri von sælufullrs ódaudligleika; já, þessvegna fagnar hann jafnvel þá daudinn nálægist, og metur hann Guds sérstu velgjörd mannkyninu til handa. Sá sem sannchristinn er, lifir svo vel og vandliga, rétt sem hann þeinkti sér ad ávinna sáluhjálpina med lífernisins réttlæti, en aptur á móti þeinkir hann svo og bidur til Guds, sem sá er sannfærdur er um, ad allt sitt lífernis réttlæti sé ekkert, en trúin á Christum allt. Hann lætur því hvorutveggja fylgjast ad: Lífernisins helgan og trúarinnar audmýkt. Hann veit ad dygd er ei dygd, ekki christilig dygd, nær skírdir menn hugsa med sínum eiginn krapti ad framqvæma þad góda, nær þeir ala þá innbirlíngu, af eiginn mætti ad uppfylla lögmálid; en han veit þar hjá, ad trúin er eintómt nafnid og hégómligt munnflapur, ef madur drýgir ásetníngs syndir, edur ef hann ei, med dagligri ydrun, bidur fyrirgéfníngar á breiskleika sínum og upprunasyndum.

Hinn christni, hinn sannchristni lætur þessvegna aldrei nockurn þann dag hjálída, ad hann

ei audmiúki sig syrir þeim volduga og hátignarfulla Gudi, bidji hann, vegsami hann og hugsi til hans. Þvílíkur gudligur vani uppfyllir hans sálu, svo hann tekur sér eckert syrir hendur, án þess ad minnast síns Guds. Einginn dagur lídur svo út, ad hann ei á hönum unnid hafi eitthvört sérdeilis gódverk; stundum hefir hann rétt einhvörjum þurstugum hjálparhönd, stundum fyllt embættis skyldu sína, stundum hughreyst þann sorgandi, stundum samid frid millum óvina, stundum hefir hann dempad hjá sér uppstígandi reidi, stundum lagt drögur til, ad einn syndari hefir tekid ad sjá ad sér, og snúa sér frá sínum vonda veigi.

O þú hinn farsæli christni! þú ert alltíd med róssamu gédi, sökum þess þú hefir frid vid sjálfan þig, sökum þess þú sækist eptir eingu, heldur mótitekur hlutunum, rétt eins og þeirra náttúrllga gángi svarar; sökum þess þú ánægdur ert í fátæktinni, þar þú veitst ad hún er þér til besta af Gudi send, vegna þess þú athugasamur ert í ríkdómi, sannfærdur um, ad Gud hefir sett þig til rádsmanns yfir hönum, til ad útbýta af hönum þeim naudlídandi. Þú farsæli christni! þú verdur elskadur af ödrum, því þú elskar alla og gjörir öllum gott, vegna þess þú alltíd ert hógvær og vinveittur, og ef nockur hatar þig edur ofsækir, þá brynjar þú þig med þolinmædi og trausti til Guds, og kémur þarmed opt óvini þínum til ad

bádst ad þér og elska þig. Þú farsæli christni! þú ert frí frá mörgum þeim þrautum, mörgum þeim hugarsturlunum og órósemdum, sem heims síns barn þvíngast af; sökum þess þú lætur ecki þær sinnishræríngar, sem þeir lastafullu leidast af, yfir þér drottna, nefniliga, hvorki reidi, hatur, öfund, hefudargirni, æruþorsta, auraspki, drambsemi né hillfi. Þessar viddjódsligu sinnishræríngar, sem strax færa óróseini med sér og loksins pínu og ófarsæld. O þú farsæli christni! þú offækir eingan, þú hatar eingan; þú forsmáir eingan, þú ófundar eingan, og fyrir þá skuld nýtur þú þeirra gjæda, sem einginn getur svipt þig, hjá hverjum allt veraldarinnar gull vegur svo lítid sem eckert, já, þú nýtur fridar, rósemdar, jafnlyndis og farsældar. Gjæsi Gud! ad heimurinn þecki farsæld þína hér á jördu; því þó hann ei trúa vildi þinni tilvonaudi á himnum, þá hlyti hann samt ad leitast vid ad feta í þín fótspor, til ad njóta þeirrar, sem þú hér nýtur, og med því móti, sér óvitandi, venjast vid þad góda, og svo loksins verda líka sannfærdur um þá væntanligu umbun og sælu, um ódaudligleika og eylífd.

Svo lukkuligur, svo farsæll er hin christni; hans farsæld er augljós; hún blasir öllum bert fyrir augum; og þó er tala hinna christnu svo lítil, þó skunda svo fáir á Christindómsins skeidsleti. Hvad veldur því? Æ, ad skygnast eptir því, er bædi torsókt og hörmuligt. Christindóms-

urinn er þó sætur og yndisligur, hann færir með sér umbun sína hér í heimi, og heitir annari stærri í öðrum heimi; þar á móti er vanrú og gudleysi bitur og ógéðslig; hún færir, í bland fá-einna ánægjusemda, margar plágur með sér í þess-um heimi, og er henni þó hótað öðrum en stærri, í hinum eptirkomanda; og samt sem ádur eru þeir vantrúudu og ógudligu svo margir, en þeir sann-christnu svo fáir. Hvør fær úr þesśari rádgátu leyst? einkum þar mannesſkjunni er þó af náttúr-unni svo varid, ad hún hefir ama á þjáníngum, en sækist eptir ánægju og gledi.

Orsøkin er þessi: Christindómurinn er í byr-jun ørdugur og sorgarligur, en þess leingur madur heldur áfram á Christindómsins veigi, því framar hverfur þessi torveldni og audveldni og fegnudur koma í þess stad. En þvert í móti er því háttad um heimnim. Hlaup hans er fyrsta létt og lislugt, veigir strádir rósum, en smámsaman taka þessar rósir ad hverfa, og þyrnar einir verda eptir. Ad vísu er þad satt, ad Christindómurinn mundi alltíd audveldur vera, ef nockur væri svo heppinn, ad njóta allt frá úngdómi góds og gudligs uppfóst-urs, ad sjá fyrir augum sér loføverd eptirdæmi á heimilinu allt um kríng sig, ad vera í eins trúfasts vegleidara samfélagi, nær árasjøldinn færir tilhneigíngarnar med sér, og þarnærst ad géta snemma inngeingid hjónaband; eitt efni sem er svo sanngirniligt, med því þad sprettur af

þvílíkri réttvísri, nytsamligri og naudsýnligri tilhneigíngu, sem Gud sjálfur oss innplantad hefir, eitt efni, seigi eg, sem þó svo torveldliga gétur skéd, eptir ásigkomulagi hlutanna vor á medal. Med slíkum hætti kynni Christindómurinn verda ad vana hjá þvílíkri manneskju, svo hún æ sídan gjæti, med Guds adstod, ecki annad enn dygdug og gudhrædd verid, og svo komist hjá ad mannspillast af heimsins tælandi girndum. Nú þó einn nyti allra þessara gódu kjara, en ecki hins sídarst talda, yrdi honum samt alltíd hætta búin, ad villast af dygdarinnar veigi, einkum ef náttúrufar hans væri fjörmikid; einganveiginn væri honum samt ómöguligt vid þann rétta veg stödugliga ad halda, og ad minsta kosti, ecki ólíkligt, ad honum mundi léttara enn ödrum veita ad komast á hann aptur; en þad er þó alltíd háskaligt frá dygdinni ad villast, og jafnan hægra ad vardveita hana ótapada, enn tapada aptur ad ödlast. En nú er svo lángt frá, ad öll þessi hlunnindi heppnist mörgum, ad madur þvert á móti gétur vart fundid einn þvílíkan, milli tíuþúsunda; þar hinir flestu hafa brest eins edur annars hlunninda þessara, já margir allra. Þegar nú manneskjan annadhvört alls ecki veit skyldur sínar edur lítur á þær med vidbjód, og þegar best gjörir, er á þeirri meiníngu, ad gjörvöll trúarbrögdin séu falin í ad fara til kyrkju, til Krista,

til altaris, og enda þad skéi med leidindum, og hún, hvort sem heldur er, lifi vondum og svívirdiligum lifnadi þess á milli, hvad er þá ad furda, þó Gudsótti finnist þvílíkum manni þúngbær, ad dygdin sé hönum til athlátürs, já jafnvel álíti þá ólángéfna, sem elska Gud og dygdina. Ad sönnu kénnir hann opt sinnar eigin ólucku, því ángist og samvitsku órósemi lætur hann til hennar finna. En hann fær þó ei skilid, ad þar séu adrar ánægjusemdir til, enn þær holdslystíngar, hvörra hann nýtur. Hann álýktar því, ad þeir sannugudhræddu, sem halda sig frá þeim, hafi einga ánægju, og þó hinar sömu áhyggjusemdir, sem hann hefir; því vill hann alls ecki vidkannast, ad sín órósemi fljóti af sínum illu lystíngum; og þó hann neydist til ad játa, ad líkamligar þjénustngar opt séu girndanna ávöxtur, samt álítur hann þær annadhvört sem einúngis náttúrligar og óumflýanligar afleidslur þeirra, en alls ecki sem nockurskonar bönd af Gudi á girndir manna lögd, ellegar hann gjörir sér í hugarlund, ad madur til þess ad ödlast þad góda, hljóti ad taka á móti því vonda. Hann ofurselur sig þessvegna hindrunarlaust sinni hégómagirni, drambsemi, ágirnd, öfundsýki og hefnarþorsta. Vetist

Það nú hèr á ofan, að hann komist í vana með að syndga, þá leitast hann að lyktum við, annaðhvört að yfirtala sjálfan sig til að trúa, að þar sé einginn Guð til, og að ódauðligleiki, sál og dygð séu nefn eintómis, edur hann álítur Guð fyrir Sinn óvin, fyrir tyranna, sem reyst fyrir þær girndir, sem hann þó sjálfur géfið hefir, og þaraðauki hafi sett mann í þvílíkar kríngumstædur, að hann géti öldúngis ecki hjákomist að brjóta hans boðorð.

Komist nú manneskjan í þvílíkt ástand, hvörsu kann hún þá að betrast edur umvendast. Ut af þessu er þá auðsókt að skilja, hvað því valdi, að svo margir ógudligir eru til, að svo margir halda á fram í gudleysinu, allt til hins sídarsta, og deya þá loksins í burtu, annadhvört í örvænt-íngu, edur rángri ætlun um Guðs náð; því margir smída sér sjálfum trúarbrögð, í hvörjum þeir samantvinna girndir sínar og útvortis Guðs dýrdkun, og gjöra sér þá ímyndun, að Guð muni sjá í gégnum sfíngur við þær fyrri, þegar þeir rækja þá sídari. Í einu ordi, þeir sofna út af med himnaríki í þaunkunum, en uppvakna í helvíti.

O þú almáttugi Andi! þú sem yfir himnunum sveimar, þú hvörn himnanna himnar ei tekið fá, þú þríeini Guð Faðir, Sonur og heilagi Andi! vertú oss náðugur, fyrir sakir þíns sonar, vors Herra og Frelsara Jesú Christs, þess sanna Guðs og manns! Lát vora trú til þín og hans aldrei raskast, jafnvel þó heimsins ginníngar lokki oss, jafnvel þó heimsspekíngar — þeir ed sig af innbirlíngu einni svoleiðis rángliga nefna — vilji forsmá oss og spotta þarfyrir, sem ei er að undra, þar þeir spotta sjálfan þig; já, jafnvel þó hinir voldugu vildu kúga oss, með vondum dæmum afvegaleiða og opinberliga predika fyrir oss marghrakinn guðleysis lærdóm. O géf oss megn mótstöðu að veita öllum þessháttar freistíngum, og til að vera óhræranligum í trúnni á þig og staðföstum í heilögum lifnaði; já lát oss elska þá sem oss hata, biðja fyrir þeim sem oss ofsækja, virða góða eiginligleika, sem þú sjálfur gésið hefir spotturum þíns og vors nafns, ósk a að þessar náttúrunnar, réttara sagt, þínar gáfur, snúist þeim ei á síðan til því stærra straffs; lát oss inniliga lánga eptir því, að óvinir vorir, spottendur og ofsækendur mættu, ásamt oss, komast til þín í himneska sælu, uppá það, eing-

inn þeirra tapist, heldur lokfins allir eylífliga sálu-hólpnir ordid gjætu.

Styrk þú oss, ad vér svoleidis gétum hegdad oss, ad þessir fiandmenn Christindómsins midt í Christindóminum, mætti siálfir lokfins siá og reyna, ad þín þekking er nytsamlig til allra hluta, og ad hinn besti christinn er sá besti undirsáti, sá besti borgari, sá einasti og sanni kappi; allt til þess ad þín gjædska meigi þekkjast, þitt nafn heidrast, þín dýrd útbreidast, þín makt tignast, og ad vor Bródir — vor blessadi Jesús sé í oss, og vér í honum eylífliga! Amen.

## Sjø spurningar til eptirþánka.

1. Hvad er sannur Christindómur?

Hrein trú og hjartans elska til Guds í Christo Jesú' full af ástundun ad gjøra Guds vilja inn- og út-vortis.

2. Hvad er falskur Christindómur?

Utvortis líking vid Christs sidalærdóm í sumum greinum, án sannrar elsku og trúar til hans í hjartanu.

3. Hvørnig gétur madur nád sønnum Christindómi?

Med því hann midt í hjartanligu ángri út af syndum sínum fyrir Gudi, leiti, í lifandi trú á Jesú fridþægingu, fyrirgéfníngar á þeim, og ásetji sér svo alvarliga ad láta af illu og læra gott ad gjøra, ad sá ásetníngur fái frámgáng.

4. Hvørnig fær madur haldid vid sønnum Christindómi?

Med því hann med ydugligri ígrundun Guds orda og trúadri bæn ali ádursagt hug-

arfar og líferni hjá sér, og standi í því stödugur allt til daudans.

5. Hvört gagn er á sönnum Christindómi?

Sannarlig samvitsku rósemd og fridur vid Gud í þessu lífi, en eylíf sæla annars heims.

6. Hvenær byrjadi sannur Christindómur ad vera til í heiminum?

Strax ad nockruleiti med því fyrsta nádar fyrirheiti í Paradís, jafnvel hans þecking sé ordin á þessum tímum lángt fullkomnari.

7. Verda þá eingir sáluhólpnir nema þeir sem þvílíkan Christindóm hafa.

Einga von gésur ritníngin um þad, þeim sér í lagi, sem þeckja edur géta þeckt Jesúm Christ, og skírdir eru til ad trúa á hann.

---

Kaupmannahöfn, 1822.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.